# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

*Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.*

I. } GIMLI, MAN. MARZ 1893. { 3.

## Um innblástur biflíunnar.

Ræða eptir Rev. B. Pétursson.

Séu mótsagnir í hinum helgu ritum,...þá er rétt að almenningur fái að vita það...Ritningin verður að þýða sig sjálf.(Sam, 7.ár. Nr.8.)

Það* er víst óhætt að segja, að engin bók hafi verið í jafnmiklu áliti í heiminum, og biflía kristinna manna, enda kemur fróðustu mönnum saman um, flestum, ef eigi öllum, að hún í heild sinni beri af öllum heimsins biflíum, að sumu leyti að minnsta kosti. Millíónum eintaka hefir verið stráð út um löndin, heimsendanna í millum, á öllum heimsins tungumálum, sem kunn eru. Og enginn getur neitað því, að hún hefir *gert* mjög mikið *gagn.* Hún hefir *vakið* nýar hugsanir, *huggað, styrkt og glatt* þúsundir þúsunda í mannraunum og freistingum. Á 16. öldinni var biflían aðalvopnið til sóknar og varnar í hendi siðbótamanna. Það má segja, að *biflían felldi páfaveldið*, hið sterkasta, svívirðilegasta og skaðlegasta veldi, sem nokkurn tíma hefir átt sér stað í heiminum. Ef Lúter hefði eigi veifað biflíunni móti páfanum, hefði hann aldrei sigur fengið. Engin önnur vopn hefðu dugað. Og enn í dag er það ekkert annað, en biflían, sem heldur protestöntum saman í einni heild gagnvart kat. kirkjunni, hvað lengi sem það verður. Væri ekki biflían til varnar, mundi rómv. kirkjan aptur sjúga til sín hina fráföllnu, týndu sauði, og verða *allsherjar kirkja orþód.* manna. En því er miður, að biflían hefir eigi verið einungis til *blessunar*, eins

*Ræða þessi er flutt í Winnipeg, 18. des. 1892.

og hún hefði *átt* að vera, og *getað* verið, heldur einnig til *bölvunar*. Það má *rekja spor* hennar gegnum liðnar aldir, í *blóði* og *tárum* og *grimmd*. Þetta er samt, auðvitað, *ekki biflíunnar* skuld, heldur þeirra *manna*, sem hafa *misbrúkað* hana og misskilið. Menn fundu upp á þeirri kreddu, að biflían, bæði hið gamla og nýja Testamenti væri innblásið á yfirnáttúrlegan hátt, þannig, að hvert einasta orð væri með einhverju móti innblásið, eða inngefið, höfundunum af heil. anda, þriðju persónu guðaþrenníngarinnar, svo að hvert einasta orð væri beinlínis Guðs orð, og þá um leið algildur, eilífur, ó-skeikanlegur sannleikur. Lúter sjálfur byrjaði með því, að fullyrða: „að hver bókstafur, hver snepill af biflíunni, væri meira virði, en himin og jörð.“ Og almennt álit protestanta á seinni tímum má best lesa í trúarjátningu Baptista í New Hampsh.1833. Þar stendur um biflíuna: „að Guð sé höfundur hennar og sannleikurinn, ó-mengaður af öllum villum, *innihaldið*“. Ég þekki ekki neina gamla kreddu,, sem gerir þvílíkan hringlanda og þvílíkan *skaða*, eins og kreddan um bókstaflegan innblástur biflíunnar. Þessi kredda hefur leitt margan heiðarlegan mann út í fals og ósannindi, þegar hann er að reyna til að klóra yfir eða koma saman bersýnilegum villum og mótsögnum í biflíunni, þegar hann óviljandi rekst á þvílíka staði. Allt hlýtur að standa heima hjá heil. anda, hugsa menn, þess vegna stendur það heima, þó annað *sýnist* svart en hitt hvítt. Vér megum til með einhverju móti að gera það jafn hitt. Mótsögn getur auðvitað ekki átt sér stað hjá Guði. Þess vegna er hún ekki til nokkursstaðar í Guðs-orði.

Vanalegast lokar almenningur augunum, þegar þvílíkir vandræða-staðir verða fyrir honum, eða hann les þá svo hugsunarlaust, að hann tekur ekki eptir þeim. Hann er hræddur um trúna sína, og vill ekki sjá né heyra neitt, sem henni getur raskað. Þessi kredda hefir öldum saman verið hinn versti þrándur í götu vísindamanna, hún hefir barist á móti vísindalegum uppgötvunum, móti útbreiðslu vísindalegs sannleika, og þar með reynt af öllu sínu megni, að halda mönnum blýföstum í fjötrum vanþekkingar og hindurvitna. Kirkjan hefir á öllum öldum séð þann sannleik, að því meir sem menn *trúa*, þ.e.a.s. í blindni, þess minna vita þeir og þess hægra er fyrir páfa og presta, að draga þá á tálar. Því minna sem almenningur veit og þekkir, þess meir geta þeir náð út úr honum af peningum og hlýðni.

Þessi kredda hefir þar að auki komið á stað úlfbúð og ofsóknum meðal hinna mörgu deilda protestanta þ.e. milli þeirra kirkju

deilda, sem hver um sig ber fyrir sig biflíuna, orð Guðs sjálfs, eða öllu heldur einhvern vissan ritningarstað. Og hver um sig þykist hafa allan Guðs sannleika til sáluhjálpar mannkynsins.

Nú með því að ritningarstöðunum ber ekki saman, kemur ekki betur saman en eldi og vatni, þá verða þeir í hendi ofsa og ofstækis að banaspjótum, að heiptareldi, að flóði blóðs og tára, að brennum og óheyrilegustu pintingum. Það má sanna því nær alla skapaða hluti með biflíunni, ef út frá því er gengið, að hvert einasta orð í henni sé jafngilt Guðs eigin orði,þ.e.a.s. tákni það sannasta, réttasta, og besta, sem mannkynið varðar þessa heims og annars· Hver mundi geta talið allar þær þúsundir saklausra kvenna, er brenndar hafa verið sökum þessara orða (2 Mós. 22, 18) „þú skalt ekki láta galdrakonu lifa?" Jafnvel hinn guðhræddi Vesley, Metodista-faðir, gat fengið af sér að segja, að það væri að smána biflíuna, ef galdrakonum væri hlíft.

En ekki þarf svo langt að leyta. Prestur einn í Vesturheimi lét brenna *á þessu hausti* unga stúlku af innlendu kyni fyrir galdra. Mormónarnir verja enn í dag fjölkvæni sitt með biflíunni, án þess *nokkur geti* hrakið, Það er og alkunnugt að prestar vörðu málstað Sunnanmanna í þrælastríðinu með biflíunni. Og enginn gat neitað því, að þrælahald var og er leyft og talið löglegt og rétt, í biflíunni. En þetta er ekkert tiltökumál, heldur svo sem sjálfsagt. Biflían var rituð á vanþekkingar og siðleysis tímum, löngu áður en nokkrum manni í víðri veröld kom í hug, að fleirkvæni, þrælahald og ótal margt annað siðleysi, væri ósiðlegt og rangt. Ómenntuðum, ósiðuðum mönnum þykir það rétt, gott og guðlegt, sem menntuðum, siðuðum mönnum þykir hin mesta óhæfa. Allar hinar orþod. kirkjur hafa jafnan brúkað biflíuna sem ástæðu og sönnun fyrir sínum fáránlegu, skynlausu og skaðlegu kreddum. Og ekki einungis það, heldur hafa þær borið biflíuna fyrir ýmsum trúarlærdómum, (t. d. þrenn. lærd.) sem enginn stafur er fyrir í biflíunni spjaldanna í millum, og innprentað alþýðu, að þetta væri guðs-orð. Kirkjumenn hafa einatt sagt við mig, þegar ég hefi bent þeim á ritningarstað gagnstæðan þeirra trú. „Það er ekkert að marka þenna stað. Þú átt ekki að lesa hann eptir *orðunum*. Þú átt að lesa *milli línanna*." Með þessu móti má auðvitað fá alla mögulega og ómögulega hluti út úr biflíunni. Þetta gerði nú í sjálfu sér ekki mikið til, ef ekki væri þessi innblásturs kredda, ef menn ekki almennt tryðu því, að hvert einasta orð í biflíunni væri Guðs eigið orð. Þessi kredda hefir gert og gerir enn ómet–

anlegt tjón. Þessvegna hefi ég tekið fyrir mig, að sýna fram á, að biflían er eigi fremur innblásin, en aðrar bækur, að hún er tómt mannaverk, frá upphafi til enda eins og allar aðrar bækur.

Fyrst vil ég þá tala um gamla Testamentið. Vafalaust héldu Gyðingar almennt, ritningu sína sérstaklega innblásna af Guði sínum Jehóva, (ekki heil. anda, því hann þekktu þeir ekki í þá daga, sem guðdómlega persónu.) Þó voru það aðeins 5 bækur Mósesar, lögmálið, sem hinir lærðustu menn, einsog Filo og Jósefus, héldu Guðs-verk, fullkomlega innblásið og óskeikandi, eins og orþod. menn trúa nú um alla sína biflíu, gamla og nýja Testam.. Þar í mót hefir Jesús bersýnilega eigi haft þessa trú, því í hinni merkilegu fjallræðu varar hann lærisveina sína við, að fylgja ýmsum lagaboðum frá 2. 3. og 5. Mós., og setur sínar reglur í þeirra stað. (Matt. 5. 31. etc.)

Slægð prestanna og trúgirni alþýðu tókst einnig, sem kunnugt er, að krossfesta Jesú fyrir það, að hann *talaði* á móti Móses, og *guðlastaði*. Páll segir (2. Tim. 3. 16.): „Sérhver ritning, sem er innblásin af Guði, er nytsamleg til lærdóms,“ en ekki: „Öll heilög ritning er innblásin af Guði,“ eins og allar biflíu-þýðingar nema *the Revised Edition*, hafa það. Þessa ramskökku útlegging hafa allar orþod. kirkjur haft til að sanna með innblásturs kreddu sína, og enda kennt hana Jesú.

Það er vafalaust satt, sem Páll segir, að sérhver ritning, sem er innblásin af guðlegum anda, er nytsamleg á öllum tímum hjá hverri þjóð sem er. Þetta sýnist og meining Páls, því hann kallar beinlínis grískan rithöfund, Epimenides spámann. Það sést líka á bréfum Páls og P.g. að hann barðist af öllu megni móti Móses lögmáli, t.d. umskurninni, og sagði það afmáð með Jesú Kristi. Þess vegna er alveg rangt, að bera hann fyrir innblásturs-kredd-unni, hvað gl. Testam. snertir, og því heldur alla biflíuna. Því á hans dögum var ekkert nýja Testam. til.

Kirkjumenn segja, að gl. Testam. sjálft beri það með sér að það sé innblásið beinlínis af Guði, sé Guðs orð. Þar standi aptur og aptur með berum orðum: „Drottins orð kom til Móses“ o.s.frv. til annara spámanna. „Drottinn sagði“ o.s.frv. En gl. T.m. segir líka frá fals-spámönnum, sem brúkuðu einmitt sama orðtækið til að gefa gildi sínum spádómum og kenningum. Svo þetta sannar alls ekkert. Það voru eigi einungis Gyðingar, heldur miklu menntaðri fornþjóðir: Egyptar, Persar, Indar, Kínverjar o. fl., sem höfðu þessa innblásturs kreddu. Þeir héldu hver um

sig, að sín gömlu trúar-rit, sínar heil. biflíur, væri yfirnáttúrlega innblásnar af guðum sínum. Þær höfðu allar saman, hver um sig, margt og mikið til síns ágætis, og eru allar við líði enn í dag. Hví skyldum vér gera innblásturs kreddu Gyðinga hærra undir höfði en innblásturs kreddum annara fornþjóða? Hvers vegna getur ekk t. d. Kóraninn og jafnvel Mormons-bók verið yfirnáttúrleg opinberun, eins og hlutaðeigendur segja og trúa, ef gl. og nýja Testm'ið eru yfirnáttúrlegar opinberanir? Hvaða rétt höfum vér til að segja hið fyrnefnda svik og hjátrú, en hið síðara guðlegan sannleika og rétta trú? Ég get ekki betur séð, en það sé bæði rangt og heimskulegt. Um ritvissu bóka gl. Testam. skal ég tala fátt á þessum stað. Það yrði oflangt mál, og kemur beinlínis ekki við umtals efni mínu í kvöld. Ég skal að eins geta þess að öllum biflíufróðum ritdómendum kemur saman um, að Móses hafi ekki getað ritað eina einustu af þeim 5 bókum, sem kirkjan hefir ávallt eignað honum. Þær komu fyrst í ljós í því formi, sem þær nú eru 500 árum eptir dauða Móses.— Það liggur líka í augum uppi, að enginn maður getur sagt frá dauða sínum, eins og Móses er látinn gera (líka Jósúa). Í 1. Mós. 36, 30. er Móses látinn tala um atburð í sögu Gyðinga (kgs.-stjórn), sem ekki varð fyrri en að minnsta kosti 200 árum eptir dauða hans. Hvað heil. anda innblástur áhrærir nægir að geta þess, að það eru bersýnilega tveir höfundar að 1. Mós., sem hvergi ber saman. Annar kallar Guð Elohim (guðina) en hinn nefnir hann Jahve (Jehova). Annar eignar Elohim sköpuninna, hinn Jahve. Annar segir, að jörðin hafi verið *hulin vatni*, og Elóhim hafi síðast skapað karl og konu, án þess að geta um, hvernig hann fór að því. Hinn segir, að jörðin hafi *verið þur* slétta, að jurtir hafi komið á eptir mönnunum, að Jehova hafi sett þá í Eden áður en dýrin voru sköpuð. Hann getur og þess, að Jehova hafi skapað konuna seinna en karlmanninn, og gert hana af einu rifbeini Adams. Þessar mótsagnir getur maður ómögulega ætlað heil. anda, eða nokkrum Guði, eins og það er er víst, að Móses er alveg saklaus af þeim. Jarðfræðin hefir líka á hinn bóginn sannað efalaust, að sköpunarsagan öll, sömuleiðis paradísar sagan er ekki annað en gömul þjóðsaga, sem ekki hefir við nein sönn rök að styðjast. Í gl. T.m., t. d. 2. Mós. 11. 2; 12. 35—36; 5. Mós. 13. 6; 1. Sam. 15. 3. eru sagðar svo ljótar og grimmdarlegar sögur um Jehova, að ég vil ekki hafa þær eptir. Enginn orþod. prestur mundi þora, að fara með þær uppá stólinn. Ekkert kirkjublað, ekki einusinni „Sam.“, mundi

vilja taka allar þvílíkar sögur í gl. T., þó stórfé væri í boði. Ég er fullviss um, að hvorki „Lögb.“ né „Hkr.“ mundi ljá þeim rúm, þó þess væri á leit farið. Þar er fullt af klám og saurlifnaðar sögum, svo ljótum, að enginn siðaður maður mundi fást til að lesa þær í áheyrn kvenna.

Getur nokkur, heilvita, kristinn, maður trúað því í hjarta sínu —þó hann ef til vill, eins og sagt er nýlega um einn lút. prestinn, játi það með vörunum— að himna faðirinn, hinn eilífi kærleikur, hin eilífa réttvísi, sé sannur að sökum, getur nokkur trúað því, að heil. andi beri þær sakir á fyrsta meðlim þrenningarinnar; eða því, að heil. andi sé höfundur að svo siðlausum ólifnaðaðar sögum, að hver einasti, jafnvel orþod. kirkjumaður mundi skammast sín fyrir að lesa þær upp hátt á nokkru heimili, og því heldur á sunnud. skólum eða kirkjum? Ég held enginn mennskur maður ætti að bera svo litla virðingu fyrir Guði og sjálfum sér, að trúa því

Ein einasta af þessum grimmdar, siðleysis og ólifnaðar sögum í biflíunni, og því heldur allar, ættu að vera nóg til að sýna það vafalaust, að biflían er ekki „Guðs orð“ heldur manna, sem lifðu á siðlausum, og hálfsiðuðum vanþekkingar tímum, (sbr. 5. Mós. 25. 9. og 11.) Með því að biflían í heild sinni, (eins og ég áður sagði um gl. T.m.) er rituð á ýmsum tímum, af ýmsum mönnum, sem höfðu mismunandi skoðanir um Guð og Guðs-dýrkun og sambandið milli Guðs og manna, gat ekki hjá því farið, að það hlytu að verða margar hreinar og beinar mótsagnir í henni. Þess vegna er biflían líka full af mótsögnum, svo berum, að enginn heilvita rithöfundur, og því síður Guð eða heil. andi mundi vilja láta slíkt eptir sig sjást.

Ég skal nú til sönnunar, gefa yður fáein sýnishorn af þeim:

| | |
|---|---|
| 1) Drottinn mælti við Móses og sagði: „Þeir skulu gera mér helgidóm, að ég *búi* meðal þeirra, (2. Mót. 25. 8.) | 1) Mundi Guð sannaulega *búa* á jörðinni? Himnanna himnar geta ekki rúmað þig því síður þetta hús, er ég hefi byggt. (1. Kg. 8. 27.) |
| 2) Þegar ég burt tek hendi mína skaltu *sjá* mig að aptan verðu. 2. Mós. 33. 23. | 2) Enginn hefir nokkru sinni séð Guð. Jóh. 1. 18. |
| 3) En drottinn talaði við Móses augliti til auglitis. 2.Mós.33,11 | 3) Guð sagði: „Þú getur ekki séð auglit mitt, því maður getur |

(NB. Mótsögn í sama kapítula 9 vers á milli.)—

4) „Ég Jakob hefi séð Guð augliti til auglitis. 1. Mós.32.30. (NB. Jóh. lætur Jesús neita þessum gömlu sögum.

5) Guð er ekki maður, að hann iðrist nokkurs. 4. Mós. 23. 19.

6) Ég hefi enga vægð, og enga meðlíðun og enga miskun, að ég eigi tortýni þeim. Jer.13.14.

7) Guð er ekki maður, að hann *ljúgi*. 4. Mós. 23. 19. Það var ómögulegt, að Guð gæti logið. Hebr. 6. 18.

8) Og það skeði eptir þetta að Guð freistaði Abrahams. 1. Mós. 22. 1.

9) Þú skalt ekki mann vega. 2. Mós. 20. 13. Enginn manndrápari hefir eilífa lífið í sér varanda.1.Jóh.3.15

10) Auga fyrir auga, tönn fyrir tönn. 2. Mós. 21. 24.

11) Og *drottins* reiði logaði enn yfir Ísraels mönnum, og *hann egndi* Davíð með því að segja: far þú og tel Ísrael og Júda. 2. Sam. 24. 1.

ekki séð mig og lifað. 2, Mós, 33. 20.

4) Þér hafið aldrei nokkurn tíma, hvorki heyrt hans rödd né séð hans ásýnd. Jóh. 5. 37.

5) Þá iðraðist drottinn þess, að hann hafði gert manninn á jörðunni. 1. Mós. 6. 6.

6) Drottinn er harla líknsamur og miskunsamur. Jak. 5. 11.

7) Drottinn hefir sent *lyga* anda í munn allra þessara þinna spámanna. 1. Kg. 22. 23.

8) Guð freistast ekki af hinu illa, en hann freistar heldur einskis. Jak. 1. 13.

9) Svo segir drottinn Ísraels Guð: slái hver sinn bróður vin og frænda í hel. 2. Mós. 32. 27.

10) Elskið óvini yðar.....gerið þeim gott, sem yður hata, etc. Matt. 5. 44.

11) Og *Satan* stóð móti Ísrael og *egndi* Davíð til að telja Ísrael. 1. Kron. 21. 1.

Hverju á nú að trúa? Annaðhvort hlýtur að vera ósatt, nema því aðeins að orþod. prestum takist að sanna, að drottinn og satan séu sama vera, sama persóna, eða að heil. andi hafi þarna farið með bull og ósannindi. Allt það sama má segja um hinar aðrar missagnir og mótsagnir. Annaðhvort hlýtur að vera ósatt. Orþod. kirkjumenn standa á því, að spádómar spámannanna sanni, að bækur gl. T. séu Guðs-verk, innblásnar af heil. anda. Það er því kynlegra þegar þeir vita að margir spádómarnir hafi aldrei komið fram, verið markleysa ein og endaleysa. Bæði Esajas (17. 1.), og Jerem. (49. 27,) spá Da–

maskus eyðilegging. Þrátt fyrir það stendur Damaskus-borg í blóma enn í dag. *Esajas* (13. 20) eyðileggur Babylon „um alla eilífð.“ Samt stendur hún enn (Hilla) með 10,000 innbúum. *Arabar tjalda* þar enn eins og áður. *Esekiel* eyðileggur allt Egyptaland með spádómum, en Egyptaland er en fjölbyggt land, og í miklum framförum. *Jerem.* spáir að hinar 10 ættkvíslir skuli koma aptur úr útlegðinni. En Það varð aðeins partur af Júda kynkvísl, sem aptur komst.

Þetta læt ég nægja að sýna, að spádómar gl. T. eru ekki hóti merkilegri en aðrir spádómar hjá öðrum þjóðum fyr og seinna. Sumir koma fram, en flestir hafa verið og verða markleysa. Og þó þeir hefðu allir komið fram, þá sannar það alls ekki neitt viðvíkjandi yfirnáttúrlegum innblæstri og óskeikulleika biflíunnar. Það gæti ekki sannað annað en það, að höfundarnir hefðu haft sérstaklega gáfu til að sjá fram í tímann, sjá atburði fyrir fram, eins og margir aðrir menn hafa haft, og hafa, óneitanlega, enn í dag.

Tíminn leyfir ekki að ég fari lengra út í þetta mál að sinni, en síðar skal ég tala sérstaklega um innblástur nýja Testamentisins.

* * *

Heilagi faðir, vér þökkum þér með elsku og lotningu í vorum hjörtum fyrir alla þína mildi og réttvísi við oss þín börn, fyrir alla þína föðurlegu forsjón og handleiðslu, hjálpa þú oss til að sjá og sýna öðrum þinn sannleika, þína dýrð og þína fullkomnun. Amen.

---

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.]

Enn skulum vér taka dæmi úr hinum kínversku biflíum.

Þegar lærisveinn Confúcíusar spurði hann um velgjörðasemi, sagði Conf.: „það er kærleikur til allra manna.“ Annarsstaðar segir hann: „kenning mín er auðskilin“ og hinn helsti af lærisveinum hans segir: „hún er í því fólgin, að hafa hjartað á réttum

stað og í því að elska náungann eins og sjálfan sig.“ Eitt skipti var hann spurður: „Er nokkurt orð, sem geti verið regla fyrir allt lífið?‘, þá svaraði hann: „mun ekki jafnrétti(reciprocity) vera slíkt orð?“ Það sem þú vilt ekki, að aðrir geri þér, það skaltu heldur ekki þeim gera“ Confucíus fæddist í Kína 551 fyrir Krist.

Hversu er nú ekki þetta líkt hinum guðdómlegu setningum Jesú Krists. Í hinni annari biflíu Kínverja, eptir Laou-tze stendur: launið fjandskap með góðverkum.

Hin fimm boðorð Buddhista eru þessi:

1. Þú skalt ekki deyða.
2. Þú skalt ekki stela.
3. Þú skalt ekki drýgja hór eða nokkurn óhreinleika.
4. Þú skalt ekki ljúga.
5. Þú skalt ekki drekka þig drukkinn.

Enn segir biflía þeirra: „Hatrið sigrast aldrei með hatri heldur með kærleika.

Hin 8 stig sem Buddha segir, að leiði til hinnar æðstu sælu, eru réttar skoðanir, réttar hugsanir, rétt tal, rétt verk, réttur lifnaður, rétt áreynsla, rétt endurminning og rétt yfirvegun.

Þá segir biflía Brahmatrúarmanna: „Enginn maður skyldi styggjast við þann, sem er reiður við hann, heldur svara þeim blíðlega er bölva honum.

Þá segir biflía Parsa: „að slá mann, eða særa hann með orðum, er synd,“ og þar er öllum, sem af hjarta tilbiðja Guð,fyrir sett, að biðja á þessa leið: „Jeg iðrast alls þess, sem ég kann að hafa syndgað, við hvern, sem ég kann að hafa brotið og hvenær, sem það hefir verið, hvert heldur í hugsunum, orðum, eða verkum. Fyrirgef það.

Þannig mætti fara um allar þessar ýmsu biflíur og finna hvern staðinn öðrum fegri, í biflíu Brahmanna, Buddista, Parsa, Confucíusar, Laou-tze, Mahómets,Gyðinga eða kristinna manna, og myndu fáir geta greint, úr hverri þeirra setningarnar væru.

Menn geta því tekið undir með Higginson, er hann segir: að hvorki trúartraust, eða kærleikur, eða ósérplægni sé einskorðuð við nokkra trú, ekki heldur fyrirgefning, eða friður, eða jöfnuður, eða menntun, eða kristniboð, eða bænir, eða ráðvendni, eða bróðurást, eða virðing fyrir konunni, eða lítilæti eða píslarvottar. Öll trúbrögð viðurkenna þetta meir eða minna.

Það er þó ekki ætlan vor, að segja öll trúbrögð jafn góð, eða að kenningar þeirra séu alveg eins Vér viljum taka ritningu kristinna

manna, einkum nýja Testamentið, fram yfir allar aðrar ritningar heiðinna þjóða. En í þeim öllum er hinum veglyndu og göfugustu hugmyndum blandað saman við svo margt fánýtt og lítilfjörlegt, barnalegt og stundum óvirðulegt, heiptarfullt niðurlægjandi skaparann og manninn; stundum ganga þær svo bersýnilega á móti öllum sögulegum og náttúrlegum sannleika, að augljóst ætti að vera hverjum einum, að engin þeirra getur álitið sig vera að öllu leiti innblásna af Guði. Aptur hafa þær allar svo mikið af háleitum og guðdómlegum sannleika, að engin getur heldur álitið aðra vera verk manna eða djöfla.

Svarið upp á spurningu þá, hvað biflía vor sé verður þá á þessa leið: Hún er ein af hinum 9 eða 10 biflíum þjóðanna, hún er sú æðsta og besta þeirra, en þó verður hún að teljast í sama flokki og þær.

Þannig sjáum vér að trúin er breiðari, auðugri, fjölhæfari enn Gyðingar, kristnir eða heiðingjar hverir um sig hafa ætlað. Þjóðirnar hafa ætíð heimtað einveldi í trúmálum, þær hafa jafnan álitið sína eigin spámenn og sínar eigin ritningar vera þær einu sönnu og áreiðanlegu. En vísindi hinna nýrri tíma hafa sýnt það, að slíkar hugmyndir eru þröngar,fátæklegar og ósannar. Trúin breiðist yfir alla jörðina, eins og sólskinið eða kærleikurinn, eða Guð. Uppspretta trúarinnar er í hverju landi. Spámennirnir búa undir öllum himinbeltum. Guð hefir gefið mönnum, ekki aðeins eina, heldur margar helgar bækur.

Vér megum ekki lengur trúa því, að Guð hafi farið að útvelja aðeins eina, fátæka og umkomulitla þjóð, af öllum þjóðflokkum mannkynsins, boða henni vilja sinn,opinbera henni ráð sín, gefa henni kost á sáluhjálpinni, en skilja allan hinn þjóðagrúann eptir í myrkri,villu og vanþekkingai, afskipta öll hin börnin sín þeim bestu gæðum, sem hann hefir mannkyninu veitt. Guð er ekki aðeins Guð Gyðinga, eða kristinna manna, heldur er hann Guð og faðir allra þjóða jarðarinnar, allra hennar íbúa. Allt eru það börnin hans, blökk og hvít, gulleit og eirrauð, hvort heldur þau eru í Gyðingalandi eða á Kyrrahafseyjum, Himalayafjöllum,Norðurálfunni eða Australíu eða frumskógunum í Miðafríku.

Eins og sjónarsvið manna stækkaði, er menn urðu þess vísari að jörðin væri ein af plánetum þeim er gengu í kringum sólina, og sólin aptur ein af afarstórum sólnahóp, eins ættu augu vor að opnast, er vér sjáum, að trú vor er ein, (ekki hin einasta) heldur ein meðal hinna mörgu trúbragða heimsins, og að hvergi er allskostar guðlaus mannflokkur. Þetta ætti að styrkja traustið og elskuna til hans, sem hefir hagað því svo, að hvergi skyldi hann vera án vitnisburðar meðal sinna barna, því öll ætlar hann að leiða þau á endanum til sín,þegar þau eru

þroskuð orðin og hæf til að vera þar, sem hann hefir fyrirhugað þeim stað.

Það er opt einsog í þoku fyrir mönnum, jafnvel fjöldamörgum klerkum, um aldur ritningar vorrar. Margir ætla, að sjónarvottarnir, t. d. Adam, Enoch, Abraham, hafi, hver fvrir sig, skráð sína sögu, og þannig sé ritningin framhaldandi sögulegur sannleikur frá sköpun veraldar. Aptur halda aðrir því fram, að Móses hafi, í hinni myrku forntíð, skrifað þann hluta hennar, sem vanalega er elstur talinn, Mósesbækurnar. En einstaka menn líta öðruvísi á það.

Vér skulum sleppa því, sem stendur í 5 bók Mósesar 34. kapítula, þar er Móses látinn skrifa eptir dauða sinn, um Jósúa, sem varð höfðingi Gyðinga eptir Móses, og um spámenn Gyðinga langt fram í tíðir. Það virðist raunar eitthvað undarlegt, sem stendur í 6. versinu, að enginn maður viti, allt til *þessa* dags, hvar gröf hans standi. Orðið „þessa“ og fleira í þessum kap. sýnist benda á það, að söguritarinn standi miklu nær oss í tímanum en Móses, líklega mörgum hundruðum ára, því að þá, þegar hann skrifar þetta, er öllum gleymt um legstað Mósesar, enginn veit þá hvar hinn mikli þjóðhöfðingi Móses hefir grafinn verið, þótt hann að líkindum hafi í fyrstu verið grafinn, að áhorfanda öllum Ísraelslýð, einum 2 milliónum manna. Vér skulum nú sleppa þessu og fleiru af sama tagi, með því ekki er hægt, að festa sig hér á neinum ártölum.

En af öðrum stað í Mósesarbókunum má sýna það, að þessar elstu bækur ritningarinnar eru að minnsta kosti 300—400 árum yngri en Móses.

Til að skýra það, sem á eptir kemur, skulum vér nú hugsa oss, að vér hefðum fundið forna bók, ritaða á kálfskinni eins og fornsögur vorar. Í henni lesum vér um fund Vesturheims, þar er sagt frá því, að forfeður vorir hefðu farið langar leiðir, vestur í landið, yfir fjöll og firnindi, merkur og skóga, allt þar til þeir komu að borg einni mikilli er landsbúar kölluðu *Winnipeg*; vér skulum láta það vera um árið 1000 e. kr. sem forfeður vorir áttu að fara þessa ferð, eptir sögu bókar þessarar. En sjá! þar finna þeir allt fulltaf fólki, sumt talar ensku, sumt íslenzku, sumt þýzku aðrir frönsku, ítölsku, sænsku kínversku; járnbrautarlestirnar ganga á hverjum degi inn og út um bæinn, rafurmagnssporbrautir liggja eptir öllum hínum stærri strætum, þar er Lögberg, og þar er Heimskringla og þar er Sameiningin; þar er síra Jón Bjarnason, og þar er Lárus Jóhannsson.

Einstaka menn kynnu nú að gleypa þetta, og segja: miklir menn voru forfeður vorir, að komast svona langt inn í landið, og

finna nafnfræga borg, og mikla menntun árið 1000 e.Kr En aptur kæmu aðrir, er segðu: þetta er bull eitt, því árið 1000 e. Kr. voru hvergi járnbrautir, þá gekk enginn sporvagn af rafurmagni, þá var hvorki Lögberg né Heimskringla, borgin Winnipeg var ekki byggð fyr en 1870 e. Kr. eða 870 árum eptir, að saga þessi átti, að hafa fram farið.

Vér skulum nú líta í 14 kap. 1. bókar Mósesar. Þar sjáum vér að þeir Kedorlaómer tóku Lot og hans fjárhluti, er þeir höfðu unnið sigur yfir hinum 5 konungum í dalnum Siddim, en er Abraham frétti það, þá vopnaði hann 318 menn og fór eptir þeim *allt til Dan.* Þar þarðist hann við þá, vann sigur og náði aptur Lot og fjárhlut hans. Þetta er nú allt saman gott, en nú skulum vér líta fram í Gyðingasöguna, þegar þeir, meira, en 300 árum seinna, óðu með báli og brandi yfir Kanaansland. Í 18. kap. Dómarabókarinnar er sagt frá því, er Dans niðjar „réðust óvörum á borgina Lais, á friðsamt fólk og slógu það með sverðseggjum, en lögðu eld í borgina, vers 27. og þeir kölluðu nafn borgarinnar Dan. eptir nafni Dans, forföður síns, sem var Ísraels sonur, en borgarinnar nafn hafði þó í öndverðu verið Lais."

Eptir Mósesbókunum átti því borgin að heita Dan á dögum Abrahams. Þá var reyndar Dan sonur Jakobs ekki fæddur og fleiri aldir til þess er borgin Lais fékk nafnið Dan. Löngu eptir að Gyð ingar voru komnir í Kanaansland tóku Dans niðjar sig til, hertóku þessa borg Lais og nefndu hana Dan, áður hafði hún Lais heitið; nú er frásaga þessi í ritningunni látin koma á eptir dauða Samsons, sem á að haf aðborið 1120 e. Kr. Hlýtur því frásaga þessi að vera 331 ári yngri, en dauði Mósesar. Enda munu þeir nú fáir orðnir, sem telja nokkurn hluta ritningarinnar eldri en í hæðsta lagi 1100 árum f. Kr meginið gamla Testam. miklu yngra. Því menn geta fljótlega séð það, að þegar saga þessi, um Lot og Abraham, kemur mitt innan í Mósesbókunum, þá er eitt að tvennu til, annaðhvort hefir hann

(Framhald næst.)

# Athuganir við sköpunarsöguna.

[Framhald.]

## II.

### *HINIR VELTANDI HEIMAR.*

Nú er eptir að vita hvernig hnettir þessir voru gjörðir. Þegar vér stöndum úti undir beru lopti, getum vér stundum séð, hvernig þokan fer að dragast saman umhverfis oss. En hvað er þá þokan? Gætum vel að. Óteljandi smágjörvar þokuagnir myndast, rétt eins og af töfrakrapti. Það eru ofursmágerðir hnettir, en fullkomnir að allri gerð,--undarlegir smáheimar,, er virðast vera skapaðir af engu og festir upp á ekkert, en þó getum vér snert þá með fingr um vorum. Svo lyftist þokan frá jörðu, streymir ofar og ofar, uns vér sjáum hana, sem ský eitt sveima um loptið. Allan daginn eru skýin að myndast þannig, í loptinu yfir höfðum vorum, og hlaðast, hvert á annað ofan, mílum saman upp í loptið, og byrgja hinn bláa himingeim. Þegar vér skoðum hinar óteljandi milliónir þessara litlu vatnshnatta, sem skapaðir eru á svipstundu, og festir þarna upp í meir eða minnaskipulegum kerfum, þá rennur sýnin upp fyrir augum vorum, eins og í hinni gömlu sögu, og vér sjáum hvernig ,,Guðs andi svam yfir vötnunum",þegar vindblærinn kaldur blæs á þokuskýin.

En hvernig er nú öllu þessu varið? Vísindin segja oss, að þar sem vér ekkert sáum í loptinu, það hafi í raun og veru verið ósýnileg gufa, allt of smágjör til þess, að sjá megi hana í stækkunargleri;en að dráttaraflið hefir dregið þessar ósýnilegu agnir saman, og myndað úr þeim sýnilega þokuhnoðra, og er það efnið í þokunni og skýjunum.

Enn heldur aðdráttaraflið áfram að verka, og dregur þokuhnoðra þessa hina smáu, saman í skýbólstra og þegar þeir eru orðnir svo stórir, að þeir missa jafnvægið og samhengisaflið (þegar þeir eru orðnir nógu efnisþungir til þess, að aðdráttarafl jarðarinnar verki á þá), þá falla þeir til jarðar í regndropum. Á þenna hátt heldur hinn skapandi andi áfram, að verka á heiminn með aðdráttaraflinu, og mynda, festa upp og hrífa með því hnetti í milliónatali í voru eigin gufuhvolfi.

En nú skulum vér taka stjörnukíkir og skyggnast út í hið óendanlega rúm. Þar getum vér einnig séð mörg hundruð af hvítum blettum, sem stjörnufræðingarnir kalla ský, þokur, á latínu nebula, en, sem eru óendanlega miklu stærri, en þokurnar í gufuhvolfi voru, margar milliónir mílna að ummáli. Þessar þokur ætla

stjörnufræðingarnir, að hafi dregist saman fyrir aðdráttaraflið úr hinni þunnu heimsgufu, sem flýtur um geiminn eins og vatnsgufan um loftið.

Spektroskopið (eins konar kíkir) sýnir oss, að sum þessi skýjabelti séu enn í gufulíki. Aðdráttaraflið er að vinna þar, eins og hér. Hafa stjörnufræðingarnir tekið eptir því, að sumar þokur þessar eru að breytast, ekki þannig, að munurinn sjáist á hverju einu augnabliki, heldur á 100 ára tímabili. Og jafnvel þar, sem vér getum ekki orðið varir við þessar seinfara breytingar, þar virðist svo, sem vér getum greint mismunandi stig aðdráttaraflsins og þéttingarinnar. Sumar þokurnar eru í óreglulegri lögun en sumar eru þegar orðnar hnattmyndaðar. Sumar eru með geislalögun (spiralform) rétt eins og efnið væri að dragast saman að miðpunktinum með hægum snúningi, rétt eins og vatn myndar hringyðu, er það rennur niður trektarháls. Enn eru aðrar þannig lagaðar, að nokkur hlutí þeirra sýnist vera smátt og smátt að skiljast frá aðalmekkinum, fyrir hinn aukna snúningshraða, rétt eins og vatnsdropinn kastast af hart snúnum hverfisteini, eða eins og hverfisteinninn sjálfur flýgur í mola, ef kastið á honum er nógu mikið. En hið sama aðdráttarafl myndi halda hinum aðskildu hlutum frá að fara oflangt, myndi sveigja brautir þeirra í hringa og knýja þá til að snúast um hina innri þungamiðju.

Á þenna hátt myndi þokan með tímanum þéttast, og verða að sól, veltandi um geiminn, með aðra smærri hnetti, er veltust um sólina og hún teymdi með sér. Ef að hnettir þessir væru nógu stórir, þá myndi sama sköpunaraðferðin endurtakast, og framleiða af þeim plánetur og tungl.

Stjörnufræðingar ætla, að vort eigið heimskerfi—sólin, jarðstjörnurnar og tunglin — sé þannig til orðið og hafi verið að skapast þannig, um óteljandi aldaraðir. Hugmynd þessi sem kölluð er þoku-theorian, er ekki grilla ein eða hugmynd, eins og sumum kann að sýnast, af þessari fáorðu lýsingu, því það lítur svo út, sem sönnunum fyrir henni sé stráð út um allann himingeiminn.

Þannig er þá jörð sú sköpuð, er vér byggjum, af þessu loptkennda ósýnilega efni rúmsins, sem er undraverðara, en „vötnin“ í hinni fornu sköpunarsögu Gyðinga, þynnra en svo, að vér getum séð það eða skilið. Þetta er upphaf hennar, frá því hún „var í eyði og tóm,“ þegar myrkrið var yfir djúpinu, þetta var kvöldið, hvers sekúndur voru óendanlegar aldaraðir.

Hversu miklu hátignarlegri og guðdómlegri verður nú eigi hugmynd vor um sköpunina, er vér lítum hana á þenna hátt? Þetta aðdráttarafl, sem lætur heimana veltast saman í hnetti, það er fyrir augum hins djúp-hugsandi manns ekkert annað, en hin ósýnilega hönd skaparans. Vér höfum mynd eina frá miðalda-tímanum, þar er skaparinn sýndur á hinum fjórða degi, er hann í manns mynd, búinn eins og þá tíðkaðist, og er að hengja sólina, tunglið og stjörnurnar upp í himinrjáfrin, eins og gylltar doppur. Hversu miklu veglegri er nú hugmynd vísindanna, um hinn skapandi anda ósýnilegan, allsstaðar verkandi, eilíflega starfandi, er veltir heimunum saman í hnattmyndir, bæði hinum smáu þokuögnum, er falla niður á jörðina og lífga og endurnæra fræið í jörðinni, og hinum stóru hnöttum, er lífið svellur og þróast á, í sinni óendanlegu fjölbreytni; um hinn skapandi anda, er hengir sólir og sólnakerfi um allt hið óendanlega rúm, á hina ósýnilegu þræði þyngdarlögmálsins. Þetta er hin eilífa, takmarkalausa sköpun. Hin gamla biblía byrjar með þessum fögru orðum: „Í upphafi skapaði Guð himin og jörð.“ En hin miklu meiri og fegurri sköpunarsaga vísindanna byrjar með þessum hátignarfullu orðum. „Upphafslaust og endalaust og hvíldarlaust, frá eilífð til eilífðar skapar Guð himna og jarðir.“

(Framhald næst.)

---

Vér höfum fúslega tekið framan prentaða ræðu eptir Rev. B. Pétursson í blaðið, og mundum taka fleiri greinar í frjálslynda stefnu. Mönnum kann að finnast Rev. Pétursson taka nokkuð ómjúkt á sumstaðar, en það sér hver heilvita maður, að spurningin verður um það, hvort þetta sé satt eða ekki. Hann kemur aðeins með ritningarinnar eigin orð; það er ritningin sjálf, sem vorir rétttrúuðu bræðr verða að hamast á, ef þeir reiðast við oss fyrir það að vér neitum óskeikulleik hennar. Það dugar ekki lengur, að slá mönnum ryk í augu með stórum orðum, sannleikurinn vill fram og hann verður að koma fram.

---

Aðal-ársfundur safnaðanna í Nýja Íslandi var haldinn að Gimli þann 23. þ. m. Á fundinum var séra Magnús J. Skaptason ráðinn prestur, eins og að undanförnu. Einnig var viðtekið á fundinum, að kalla félag vort: „Fríkirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi.“

---

——*Benjamín Franklín*, einhver hinn merkasti maður, sem álfa þessi hefir borið, segir um trú sína:

„Ég trúi á einn Guð, skapara alheimsins, ég trúi því, að hann stjórni honum með forsjón sinni; að vér verðum honum kærastir með því að gjöra gott hinum öðrum börnum hans; að sála mannsins sé ódauðleg, og muni yfir hana ganga réttlátur dómur í öðru lífi, samkvæmt breytni mannsins í þessum heimi. Þetta hygg ég vera grundvallaratriði í hverri skynsamlegri trú. Hvað Jesú af Nazareth líður, þá ætla ég að trú sú er hann kenndi mönnum og sýndi með líferni sínu, sé hin bezta, er heimurinn hefir nokkurn tíma séð, en þó ætla ég að henni hafi verið breytt í sumu og þannið spilt; einnig hefi ég nokkurn efa um guðdóm hans eins og nýrri trúarmenn (dissenters) á Englandi.

---

*ÞESSIR menn hafa borgað „DAGSBRÚN“ I. árg.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| Sveinn Thorwaldsson, Árnes, | $o.5o | Sigf. S. Jónasson, Seattle ........ | $1.oo |
| Einar Einarsson, Gimli ...... | 1.oo | Gísli Sæmundsson, „ ........ | 1.oo |
| Jósef Sigurðsson, „ ...... | 1.oo | John Oddson,.......... „ ........ | 1.oo |
| Þór. Þorleifsson, „ ...... | 1.oo | Magnús Einarsson, „ ........ | 1.oo |
| Jón A. Austmann, „ ...... | 1.oo | Sölvi Sölvason, „ ........ | 1.oo |
| Jóhann W. Jónsson, „ ...... | 1.oo | John August, „ ........ | 1.oo |
| Tr. Benediktsson, Husavick,... | 1.oo | S.B.Brynjólfsson, Mountain,... | 1.oo |
| Bergþór Þórðarson, Hecla,P.O. | 1.oo | John Hillman „ ... | 1.oo |
| E. J. Doll, ......... „ | 1.oo | Sigurður Johnson, „ ... | 1.oo |
| Páll Jakobsson, „ | 1.oo | Guðmundur Skúlason,„ ... | 1.oo |
| Jón Jónsson Borðeyri, „ | 1.oo | Snorri Kristjánsson, „ ... | 1.oo |
| Pétur Bjarnason, Ice. River, | 1.oo | Kristján Indriðason, Hensel,... | 1.oo |
| Jóhann Jóhannsson, „ | o.5o | Ólafur Ólafsson, „ ... | 1.oo |
| Hallgr. Guttormsson, Hallson.. | 1.oo | Thorl. Thorfinnsson, „ .... | 1.oo |

---

Útsölumenn blaðsins biðjum vér svo vel gera, að endursenda það af blaðinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

---

Útsölumaður blaðs vors í Winnipeg, er Mr. St. B. Johnson. 576 Alexander st..

---

Hve nær sem kaupendur að „Dagsbrún“ skipta um búðstað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson.

---

*G. M. Thompson, er „business manager“ og féhirðir fyrir blaðið. Kaupendur snúi sér því til hans viðvíkjadi afgreiðslu blaðsins og borgun fyrir það. Utanáskrift til hans er Gimli, P. O., Man. Canada.*

---

„DAGSBRÚN“ kemur út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vesturheimi; greiðist fyrir fram——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

*Prentuð hjá G. M. Thompson—Gimli.*